Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

Ert þú áskrifandi að vikublaði verkafólks?

31. tölublað | Þriðjudagur 22. 8. 1978 | 7. árg. | verð kr. 100.-

# Uppsagnir á verkafólki

Nú blasir við verkafólki í fiskiðnaði atvinnuleysi vegna lokunar frystihúsanna. Mörg hundruð manns hefur verið sagt upp vinnu og lokun húsanna virðist koma til framkvæmda 1. september, en öðrum hefur þegar verið lokað. Frystihúsaeigendur standa all furðulega að þessari lokun og þrátt fyrir að verkafólk eigi að hafa mánaðar uppsagnarfrse frest hefur það verið sent heim fyrirvaralaust. Verkamannasambandið hefur hótað að kæra þetta og höfða mál á hendur frystihúsaeigendum. Það er auðvitað góðra gjalda vert að láta þessa menn fara að lögum, en þó sýnist manni það ekki vera höfuð vandinn, sem nú steðjar að, heldur hitt að verið er að loka húsunum. Verkamannasambandið hefur aftur á móti ekki bent á neinar leiðir til að koma í veg fyrir það. Þó það myndi leysa öll vandamál verkafólks í einu vetfangi.

En hvernig á þá að halda húsunum opnum þegar löglegir eigendur þeirra segjast ekki getað rekið þau lengur. Fyrst verður auðvitað að fá nýja eigendur, og þá liggur beinast við að verkafólkið og verkalýðshreyfingin taki að sér reksturinn. Verkafólki gefst nú tækifæri til að taka yfir þau framleiðutæki sem það raunverulega á og hefur byggt upp með eigin höndum. Það hefur sára lítinn tilgang að standa í kærumálum eins og Verkamannasambandið ætlar sér. Ástandið er allt annars eðlis, hér er um að ræða afkomu þúsunda manna og þá þýðir ekki að ætla sér að standa í mála þófi í langan tíma. Grípa verður til róttækra aðgerða strax, ef frystihúsaeigendur ætla í raun að leggja niður allan rekstur frystihúsa á landinu 1. sept. n.k.

En reynsla verkafólks af forystu sinni er sú, að ekki sé þaðan mikils stuðnings að vænta. Ef verkalýðsforystan væri ekki eins og raun ber vitni, þá væri hún löngu farin að halda fundi um málið úti um allt land og reyna að skipuleggja baráttu gegn þessum uppsögnum. Auk þessa vill verkalýðsforystan ekkert hreyfa sig á meðan ekki er enn búið að koma á starfhæfri ríkisstjórn, því það gæti allt eins farið að sú ríkisstjórn sem yrði mynduð væri eftir þeirra höfði. Og þá verður ekki lagt út í neina baráttu.

Eina baráttan sem verkafólk getur háð með nokkrum árangri er stéttabarátta. Barátta þar sem verkalýðurinn tekur upp óvægna baráttu gegn auðvaldinu ríkisvaldi þess og þeim mönnum innan verkalýðshreyfingarinnar sem telja sig vera sjálkjörna til að leiða verkafólk. Einmitt þessir menn eru uppkeytir af auðvaldinu til að afvegaleiða baráttu verkalýðsins. Þeir fá kannski ekki greiddar í beinhörðum peningum, en þeim er mútað með allskonar bittlingum. Mörgum með svo mörgum bittlingum að engin skilur að þeir hafi neinn tíma til að sinna málefnum umbjóðenda sinna.

# Stjórnarbrölt

Eitthvað virðist vera að ganga saman í stjórnarviðræðum krata, framsóknar og Alþýðubandalags, undir forystu Lúðvíks Jósepssonar. Greinilegt er að flestar þær kröfur sem Alþýðubandalagið lagði fram í upphafi stjórnarviðræðnanna að afloknum kosningum hafa verið dregnar til baka. Nú heimila þeir lækkun gengis krónunnar, herinn má vera, við verðum enn þá í NATO og. svo. frv. Allt er þetta látið heita að verið sé að leysa efnahagsvanda þjóðarinnar. Þeir sem veittu Alþýðubandalaginu brautargengi í síðustu kosningum á þeim forsendum að það myndi taka á vandamálunum með festu og engar lausnir yrðu gerðar á efnahagsvandanum, með því að skerða kjör og hagi verkafólks hafa verið sviknir. Í raun gengur ekki hnífur á milli þeirra lausna sem kratarnir hafa á efnahagsvandanum og Alþýðubandalagið. Flokkarnir (allir) eru sammála um 15% gengisfellingu og áhrif hennar verði greidd niður! Ekkert er vitað um hvernig eða með hvaða móti þær ætla sér að greiða þær niður, þeir eru einungis sammála um að það þurfi að greiða hana niður, annað væri alltof afhjúpandi gagnvart verkafólki.

Aðalvandamálið hjá flokkunum í dag virðist vera að ágreiningur er um hver eigi að vera hvað í næstu ríkisstjórn. Kratar vilja fyrir engan mun að Lúðvík verði forsætisráðherra kannski sárnar þeim greijunum að ekki skildi ganga betur en raun bar vitni, hjá Benidikt að mynda ríkisstjórn. Hins vegar eru Alþýðubandalagsmenn ólmir í að Lúðvík láti hvergi undan. Framsóknardelarnir eru eins og alltaf opnir og berir í báða enda, segja þetta í dag og hitt á morgun. En hver sem raunin verður þá kemur það ekki til með að breyta neinu fyrir launafólk, því alltaf draga þeir upp sömu gömlu auðvaldslausnirnar að minnka kaupmátt launa, á einn eða annan hátt.




Hluti af verkalýðsaðlinum. Þeir telja sig verja sjálfkjörna til forystu.

SAMTÖK HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

# Bréf til Brésneff

Eftirfarandi bréf sendu Samtök herstöðvaandstæðinga til Leonids Bréfsneffs forseta Sovétríkjanna. Þar er innrásin fordæmd, og skorað á sovétstjórn að fjarlæga heri sína út úr Tékkóslóvakíu. Ennfremur er krafist úrsagnar Íslands úr Nato og brottfarar herliðs af Íslandi.

21. ágúst 1978

Forseti Sovétríkjanna
Hr. Leonid Brésneff
c/o Sendiherra Sovétríkjanna
Garðastræti 33,
101, Reykjavík. Ísland.

Íslenskir herstövaandstæðingar vilja á þessum degi, réttum 10 árum eftir innrás herja Varsjarbandalagsins í Tékkóslóvakíu, mótmæla harðlega þeirri stjórnarfarslegu óáran sem innrásin innleiddi þar í landi. Jafnframt krefjumst við þess að herir Sovétríkjanna hverfi brott úr landinu, svo að tékkneskri alþýðu megi auðnast að endurheimta þær frelsisvonir sem tóku að sjá dagsins ljós skömmu fyrir innrásina.

Eins og yður er kunnugt, höfum við íslenskir herstöðvaandstæðingar háð þrotlausa baráttu gegn veru bandaríska Natóhersins í landi okkar. Sem varðstöð auðvaldsins í okkar heimshluta stendur hann vörð um það arðrán og þá kúgun sem þar fer fram. Hann hefur auk þess margvísleg og margslungin áhrif á þjóðlíf okkar. Hann spornar gegn eðlilegri þróun þess til aukins frelsis, jafnréttis og bræðralags. Hann er smánarblettur á íslensku þjóðlífi. Honum skulum við fyrir koma.

Á svipaðan hátt standa herir Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu gegn hagsmunum tékkneskrar alþýðu. Þeir styðja í sess sessi leppstjórn föðurlandssvikara, sem hefur það verkefni helst að brjóta á bak aftur allt frumkvæði framsækinna frelsis afla. Þannig tryggja þeir, að vorvindarnir, sem geisuðu um Tékkóslóvakíu árið 1968, taki ei að leika á ný og breiðast til annarra aðildarríkja Varsjárbandalagsins, Vegna stórveldahagsmuna Sovétríkjanna hafa því Tékkar og Slóvakar orðið að þola verulega skerðingu mannréttinda í landi sínu, takmarkað tjáningarfrelsi og hefta félagsstarfssemi. Tékkóslóvakía er nú sannkallað lögregluríki. Íslenskir herstöðvaandstæðingar krefjast þess að herir yðar, sem nú sitja í Tékkóslóvakíu hverfi þaðan á brott.

Kröfur dagsins eru:
Heri Sovétríkjanna burt úr Tékkóslóvakíu.
Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka.
Gegn vígbúnaði stórvelda.
Ísland úr Nato, herinn burt.

Samtök herstöðvaandstæðinga.
Ásmundur Ásmundsson
formaður miðnefndar.

# Ályktun um stjórnarmyndun

FRÉTTATILKYNNING FRÁ SAMTÖKUM HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA.

Nú hafa um alllangt skeið staðið yfir viðræður stjórnmálaflokka um myndun ríkisstjórnar, og virðist sem þær séu að bera árangur.

Viðræður þessar hafa fyrst og fremst snúist um efnahagsvandann, og er það út af fyrir sig ekki að lasta.

Hinsvegar er vert að minnast þess að vandamál efnahagslífsins verða ekki skilin frá herstöðvamálinu. Hersetan og stórframkvæmdir í tengslum við hana hafa til dæmis valdið því að íslenskir atvinnuvegir hafa verið vanræktir, einkum á Suðurnesjum og atvinna á vegum hersins komið í þeirra stað.

Þá er það skoðun Samtaka herstöðvaandstæðinga, að því aðeins verði spornað gegn vaxandi ásókn erlends einokunarauðmagns, að herstöðvar í landinu verði lagðar niður. Það er einn megin hlutverk hersins á Íslandi að standa vörð um fjárfestingu erlends einokunarauðmagns, að herstöðvar í landinu verði lagðar niður. Það er einn megin hlutverk hersins á Íslandi að standa vörð um fjárfestingu erlendra auðhringa.

Ekki er að sjá, að þessi sjónarmið hafi borið á góma í stjórnarmyndunarviðræðum undanfarnar vikur.

Samtökin vilja einnig minna á öflugar mótmælaaðgerðir herstöðvaandstæðinga undanfarin ár, en í þeim felst skýlaus stuðningur tugþúsunda manna við markmið samtakanna.

Samtök herstöðvaandstæðinga vilja ítreka skilyrðislausar kröfur sínar um brottför hersins og úrsögn Íslands úr NATO. Telja samtökin fráleitt, að nokkur ríkisstjórn verði mynduð án þess að skýr afstaða sé tekin til þessa máls málanna.

23. ágúst 1978.
Samtök herstöðvaandstæðinga.

LEIÐARI

# Lausn efnahagsmála

Það duldist engum að fyrir kosningarnar kunnu allir flokkar örugga aðferð á lausn efnahagsvandans. Ráðin voru að vísu nokkuð mismunandi, íhaldið taldi launalækkun leysa allan vanda, á meðan Alþýðubandalagið talaði um vaxtahækkun sem lausn allra erfiðleika.

Nú eftir kosningarnar hafa efnahagsmálin staðið þvert í öllum tilraunum til myndunar nýrrar ríkisstjórnar. Lausn verðbolguvandans, hættunnar á atvinnuleysi o.s.frv. hafa reynst flóknari en svo að kosningarloforð geti leyst þau. Sjálfsagt eru þeir ekki ófáir, sem bera nokkurn kvíðboga til þess hvaða leiðir verða farnar. Eftir vikulangar viðræður flokkanna, til að mynda starfhæfa ríkisstjórn, er fólki orðið ljóst að hver sem ríkisstjórnin verður, verða ráðstafanir hennar síður en svo vinsælar af launafólki. Megin línurnar verða þær að gengið verður á gerða kjarasamninga og kjörin lækkuð miðað við verðbólguþróun undanfarinna mánuða. Þau rök sem notuð eru til að verja þessa stefnu er að halda verði uppi fullri atvinnu. Áfram verður haldið fram þeirri stefnu að fjármunir verða færðir frá launafólki til atvinnufyrirtækja, burt séð frá gerðum kjarasamningum.

Sjálfsagt verða margir til að verja þessa stefnu, sem launafólk hefur orðið að sætta sig við nú um langt skeið.

Til að snúast gegn þessari þróun dugar ekki að treysta á kosningar eða loforð frambjóðenda fyrir kosningar. Það hefur launafólk fengið að reyna. Þingflokkarnir þekkja enga aðferð sem tryggir launafólki stöðugt verðlag, eða atvinnuöryggi. Lausnin er ekki að kjósa svokallaða verkalýðsflokka, sem mest tala um verdun
verndun kaupmáttar og hagsmuni verkafólks fyrir kosningar. Þeir eru fljótir að gleyma þessum loforðum og grípa til gömlu auðvaldsúrræðanna, eftir að kosningarnar eru afstaðnar. Lögmál kapítalismans segja til um hver lausnin er. Gróðaaukning fyrir auðmennina, er það eina sem tryggir áframhaldandi fram leiðslu og ef gróðinn er ekki nægur er mismunurinn sóttur í vasa launafólks.

Þetta eru einu lausnirnar sem auðvaldsskipulagið hefur upp á að bjóða. Til að breyta þessu verður verkafólk að skipuleggja og efla baráttu sína fyrir breyttu þjóðfélagi. Sérstaklega verður að efla baráttuna og uppfræðsluna í verkalýðsfélögunum. Þau eru einn mikilvægasti hlekkurinn í baráttu verkafólks gegn fjandsamlegu þjóðfélagsskipulagi.

Verkafólk getur einskis vænst af ríkisvaldinu. Aðeins starf og stéttabarátta verkafólksins sjálfs getur veitt okkur frelsi og sjálfstæði á öllum sviðum þjóðlífsins og kastað af okkur byrðum kapítalískra þjóðfélagshátta.

# Tvær sögur

Enn birtum við úr hinni stórgóðu dagskrá Snótarstúlkna í Eyjum - ykkur til gagns og gamans. Í þetta skipti eru það 2 smásögur úr baráttunni um viðureign verkakvenna við Ástþór Matthíasson og Einar "ríka" Sigurðsson.

Einu sinni reyndum við að fá Einar Sigurðsson og fleiri til að semja við okkur. Þeir voru tveir eða þrír sem sömdu við okkur en Einar fór aðra leið. Hann kallaði stúlkurnar sem hann hafði á fund og sagði við þær: Þið þurfið engan félagsskap, það sem þið þurfið er góður atvinnurekandi og ég skal hækka kaupið við ykkur. Og það gerði hann. Hann hækkaði það jafn mikið eða meira en félagið fór fram á. Svona var aðferðin - hann sló vopnið alveg úr höndum okkar. Og hann gerði afskaplega margt fyrir fólkið á þessum tíma sem við voru að reyna að efla félagið. Það voru aðeins fáar konur sem önsuðu okkur. Einar stofnaði mötuneyti, setti upp böð og gufubað og hann fór með konurnar í skemmtiferð til landsins. Þetta var einhvern tíma í kringum 1935 eða 1936. Svo sendi hann öllu fólkinu jólagjöf - þeir sem unnu hjá honum fengu 100 kr. í umslagi og jólakort. Það var alveg dáðst að honum.
Einsi er góður gæi
hann gefur okkur allt.
Allir voru fjarska ánægðir og á jólunum - ég gleymi því aldrei- tók fólkið sig saman og lét gera styttu af honum. Lukkan var svona mikil. Þetta var gipsstytta, brjóstmynd, og henni var komið fyrir í matsalnum. Jæja - svo komu aftur jól og þá fékk allt fólkið stóra mynd af Einari - en engan pening. Þá urðu vonbrigðin svo mikil að okkur var sagt að þeir hefðu snýtt styttunni með slorugum vettlingunum. Auðvitað bjóst fólkið við peningum eins og árið áður. Okkur hjá verkakvennafélaginu varð nú satt að segja töluvert dillað yfir þessum endi á öllum herlegheitunum. En við gátum aldrei fengið hann til að semja - það var ekki hægt að fá aðstoð á nokkurn hátt - þó við værum að tala daglega við þessa karla hjá Alþýðusambandinu. Við fengum ekkert nema óskýrar yfirlýsingar og það rann allt út í sandinn. Það var ekki samið fyrr en töluvert mikið seinna.

---

Einu sinni stöðvuðum við vinnu. Þá barst síld til Eyja og Ástþór Matthíasson setti upp vinnslustöð til að salta síldina. Konurnar mættu náttúrulega þangað með klippur og allt var komið í gang við söltunina. Svo förum við að grennslast fyrir um það hvað sé borgað, og þá ætlaði Ástþór bara að borga tímakaup en við höfðum aflað okkur upplýsinga um taxtann á Siglufirði og vildum fá þann taxta borgaðan. Síld hafði ekki áður komið til Vestmannaeyja og við höfðum ekki unnið hliðstæða vinnu áður. Þetta gerðist í desember og við förum og sögðum að ef hann borgi ekki og skrifi undir samninga við okkur þá stöðvum við vinnuna. Hann sagði að það kæmi ekki til - við gætum það ekki en við fengum menn úr verkalýðsfélaginu til að hjálpa okkur Svo förum við niður eftir og






## Lögreglan ræðst á friðsama mótmælagöngu í Guatemala.

Lögreglan í Guatemalaborg (Guatemala city) beitti táragasi, föstudaginn 4. ágúst, er hún tvístraði friðsamri mótmælagöngu 10.000 verkamanna, smábænda og stúdenta en gangan fór fram í miðborginni.

Á síðustu árum hafa "öryggis hersveitir" Guatemala ekki verið notaðar til árása á friðsama mótmælendur og má skoða þessar aðgerðir ríkisstjórnar Romeo Lucas Garcia forseta sem svo, að ákveðið hafi verið að berja af hörku niður alla andstöðu við yfirvöldin.

Ekki er vitað hverjir margir særðust alvarlega í árásinni, en meira en 100 manns voru fluttir á sjúkrahús vegna gaseitrunar.

Göngumenn voru að mótmæla aftöku á mikilhæfum verkalýðsforingja sem fór fram í júlí og eins því að ríkisstjórnin gerði upptæk og bannaði útgáfu málgagns sem fluttu afstöðu tveggja "vinstri" sinnaðra skæruliðahreyfinga.

Fulltrúi ríkisstjórnarinnar hafði varað verkalýðsforingja National Workers Federation við (en þeir skipulögðu mótmælagönguna) að ef gengið yrði til að mótmæla án leyfis yfirvalda myndi gangan verða stöðvuð.

Verkalýðsforingjarnir vísuðu til stjórnarskrárinnar og sönnuðu þar rétt sinn til friðsamra fundahalda, sem tilkynnt væru með tilskyldum fyrirvara. En ríkisstjórnini í Guatemala lét ekki stjórnarskrárlögin standa í vegi sínum hvað varðar þá ætlun sína að yfirbuga andstæðinga sína, verkamenn, smábændur og stúdenta.

---

## General Motors - 4000 atvinnulausir í Argentínu

Bandaríska bílaframleiðslufyrirtækið, General Motors Corporation skýrði frá því á föstudag 4. ágúst að það myndi binda endi á bíla-og vörubílaframleiðslu sína í Argentínu. Fyrirtæki General Motors í Argentínu eru ein þess elstu erlendis. Ástæðuna fyrir framleiðslustöðvuninni segja General Motors vera harðnandi samkeppni og minnkandi sölu í Suður-Ameríkulandinu.

Þetta jarðarinnar stærsta bílaframleiðslufyrirtæki segir efnahagslega stöðu sína það erfiða, að það geti ekki haldið áfram rekstri hinna tveggja verksmiðja sinna í Buenos Aires, sem hafa 4000 verkamenn í vinnu.

Talsmaður General Motors sagði að þeir hefðu gert yfirlit yfir efnahagslega stöðu bílaiðnaðarins í Argentínu og fundið út að General Motors kæmi illa út miðað við hin 10 slík framleiðslufyrirtæki sem enn eru starfrækt í Argentínu. Hann kvað brottflutning fyrirtækisins hefjast þegar í stað og yrði honum lokið á næsta ári.

Samtímis gerast þau tíðindi að General Motors setur upp fyrirtæki í Belfast á Írlandi og læst gera það af einskærri góðmennsku því þar sé 35% atvinnuleysi.




## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

STYKKISHÓLMUR
Gísli Hjaltason
P. O. box 63

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

SVÍÞJÓÐ
Kristján L. Guðlaugsson
Kämnärsvägen 11N:220
222 46 LUND.

# Öflugar aðgerðir 21. ágúst hreyfingarinnar

**Dufþakur**

Mikið var um fundarhöld í tilefni 10 ára afmælis innrásar herja Varsjárbandalagsríkjanna í Tékkóslóvakíu. Þeir aðilar, sem stóðu fyrir aðgerðum þennan dag voru 21. ágúst-hreyfingin, Samtök herstöðvaandstæðinga og svo Natóvinirnir, dulbúnir sem lýðræðissinnuð æska.

Án ef voru aðgerðir 21. ágúst-hreyfingarinnar umfangsmestar og jafnframt pólitískt séð besti stuðningurinn við alþýðu Tékkóslóvakíu. Stefnugrundvöllur þessarar hreyfingar birtist í eftirtöldum fjórum vígorðum: Sovétríkin burt úr Tékkóslóvakíu! Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka! Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna - Bandaríkjanna og Sovétríkjanna! Gegn allri heimsvaldastefnu - Ísland úr Nató - herinn burt!

Ekki þarf að efa það, að KFÍ/ML tekur heilshugar undir þennan stefnugrundvöll. Því kemur það dálítið spanskt fyrir sjónir, að ekki skyldi hafa verið minnst einu orði á undirbúningsstarf né fyrirhugaðar aðgerðir 21. ágúst-hreyfingarinnar í síðasta tbl.

Stéttabaráttunnar. Þó munu ýmsir flokksfélagar hafa tekið þátt í starfsemi hreyfingarinnar. Allavega varð ekki betur séð en einn félagi KFÍ/ML hafi verið meðal ræðumanna á innifundi hreyfingarinnar um kvöldið, sem oft áður hefur komið fram fyrir hönd flokksins. Auk þess sendi flokkurinn fundinum skeyti.

Það var einmitt ætlunin að fjalla hér lítillega um baráttufund þann, sem 21. ágústhreyfingin hélt í Lindarbæ að kvöldi þessa dags. Það er skemmst frá því að segja, að fundurinn heppnaðist í alla staði mjög vel; því var að þakka vönduð og fjölbreytt dagskrá, troðfullur salur fundargesta og góð stemning, sem á fundinum ríkti. Án efa var fundurinn mikil lyftistöng í baráttunni gegn stríðsundirbúningi risaveldanna og fyrir enn öflugra starfi 21. ágúst-hreyfingarinnar.

Dagskráin var fjölbreytt eins og áður segir, en ekki er ástæða til að tíunda hvert atriði hennar. Hún hófst með ávarpi formanns hreyfingarinnar, Matthíasar Sæmundssonar. Því næst kom sönghópur hreyfingarinnar fram og flutti fallegt lag um baráttu tékkneskrar alþýðu, Ágúst 68. Síðan rak hvern dagskrárliðinn annan, fjölmörg ávörp voru flutt, Einar Bragi, rithöfundur, flutti nokkrar ljóðaþýðingar og Sigurður Skúlason leikari, stjórnaði samlestri á blaðaefni frá 1968.

Kostnaðurinn við svona aðgerðir er gífurlegur; hann skiptir tugum, ef ekki hundruðum þúsunda. Til að mæta þessum kostnaði var efnt til happdrættis á fundinum. Keyptir voru miðar fyrir rúmar 170 þús. kr. og sýnir það nokkuð vel, hve stuðningurinn við starfsemi og tilvist þessarar hreyfingar er mikill.

Fundinum lauk með því að stiginn var dans til kl. 00,30 við undirleik Tríós 72. Ekki voru allir á eitt sáttir um þetta atriði baráttufundarins og þótti mörgum óviðkunnanlegt að ljúka honum á þennan hátt. Undir þessa gagnrýni skal tekið, enda fór svo, er á leið dansinn, að inn í salinn slæddist fólk, sem einungis var í leit að skemmtilegheitum.

Allt um það, aðgerðirnar þennan dag, bæði af hálfu 21. ágúst-hreyfingarinnar og Samtaka herstöðvaandstæðinga voru mikil hvatning allra andheimsvaldasinna í baráttunni gegn stríðshættunni og fyrir brottför bandaríkjahers af Miðnesheiði og úrsögn Íslands úr Nató.

# Aðgreining þriggja heima er vísindaleg marxisk úttekt a núverandi heimsástandi

Kenning Mao tse tung um hina þrjá heima, hefur valdið miklum deilum innan heimshreyfingar marx-lenínista. Hæst risu þessar deilur,nú fyrr í sumar með formlegum vinslitum milli Kínverja og Albana. Albanir hafa haldið því fram að þessi vísindalega greining Maós á ástandinu í heiminum í dag sé endurskoðunarsinnuð, og til þess eins að villa alla einlæga baráttusinna fyrir frelsi og sósíalisma af réttri leið. Í ljósi alls þessa er mjög mikilvægt að allir and-heimsvaldasinnar og baráttusinnar fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar kynni sér mjög vel þær kenningar sem liggja til grundvallar fyrir þessu þessum ágreiningi. Ritnefnd Stéttabaráttunnar vonar að þessi grein sem tekinn er úr ritstjórnargrein Dagblaðs Alþýðunnar í Kína geti orðið kveikja að áframhaldandi rannsókn á deilum þessum.

Hér birtist 2. hluti þessar greinar. Fyrsti hluti birtist í síðasta tölublaði. Lesendur taka eflaust eftir tilvitnunarnúmerunum í greininni, en í lok þess kafla mun listi yfir það verða birtur.

Á efri ævidögum sínum, minntust Marx og Engels oft á það, að einörð andstaða gegn árásarstefnu rússneska keisaraveldisins væri prófsteininn á það, hvernig aðgreina skyldi pólitísk öfl Evrópu og ákvarða hverri þjóðernishreyfingu í Evrópu, hin alþjóðlega öreigastétt skyldi veita stuðning sinn. Það er ljóst að með þessu voru Marx og Engels engan veginn að leiða hjá sér alþjóðlega stéttabaráttu. Þvert á móti höfðu þeir grundvallarhagsmuni öreiganna í hinni alþjóðlegu stéttabaráttu jafnan í huga. Hvað getum við lært af Marx og Engels, að fagna hinni miklu þjóðlegu byltingarhreyfingu gagntekið hefur allar kúgaðar þjóðir og skekið heiminn, og líta á hana sem mikilsverða forsendu og órjúfanlegan tryggingu fyrir sigri hinnar alþjóðlegu öreigastéttar. Í öðru lagi við stöðugt að hafa í huga móthverfurnar milli auðvaldslandanna og greina erkióvin hinnar alþjóðlegu verkalýðshreyfingar eins og Marx og Engels gerðu, og heyja óvægilega baráttu gegn helstu vígjum heimsafturhaldsins í dag, nefnilega sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og bandarísku heimsvaldastefnunni Lenín varð fyrstur til að benda á það, að heimurinn hefði þegar komist á skeið heimsvaldastefnu og öreigabyltinga og hann var einnig fyrstur til að stofnsetja sósíalískt ríki forræði alræðis öreiganna. Hann varð fyrstur til þess að bera til baráttu kúgaðra þjóða gegn heimsvaldastefnunni sem þátt sósíalískrar hreyfingar heimsöreiganna og setja fram þessa stjórnlistarstefnu, " Öreigar allra landa og kúgaðar þjóðir sameinist." Í grein sinni " Söguleg forlög kenningar Karls Marx ", sem Lenín skrifaði 1913, segir hann " En varla höfðu tækifærissinnarnir óskað sjálfum sér til hamingju með tilurð " félagslegs friðar " og með þá staðreynd að " lýðræðið " gerði stormana óþarfa, þegar ný uppspretta mikilla heimsfárviðra skapaðist í Asíu. Rússnesku byltinguinni, fylgdu tyrkneska, persneska og kínverska byltingin. Við lifum nú tímaskeið þessara storma og "endurvarp" þeirra í Evrópu " 13 . Varðandi tengsl byltingarhreyfingar hinnar alþjóðlegu öreigastéttar og byltingarhreyfingar kúgaðra þjóða sagði Lenín, árið 1916: " Þjóðfélagsbyltingin getur ekki orðið í annari mynd en þeirri, að tímaskeið borgarastyrjaldar gegn borgarastéttinni í þróuðu löndunum renni upp og tengist fjölmörgum lýðræðis og byltingarhreyfingum, þar með töldum þjóðfrelsishreyfingum hjá vanþróuðu þjóðunum, sem eru afturúr og kúgaðar." 14. Þessar skoðanir Leníns eiga enn fullt gildi. Að lokinni Októberbyltingunni og fyrri heimsstyrjöldinni, flutti Lenín "Skýrslu um alþjóðaástandið og grundvallarverkefni Kommúnísku Alþjóðasambandsins" á II. þingi Kommúníska Alþjóðasambandsins, árið 1920. Í henni skiptir hann afdráttarlaust löndum veraldar, sem þá höfðu heildaríbúatölu 1,750 millj. í þrjá hópa og gerði þessa skiptingu að viðmiðunaratriði til að ákvarða stjórnlist og baráttuaðferð hinnar alþjóðlegu öreigastéttar. Hann sagði: "Þannig birtast okkur útlínur heimsmyndarinnar í megindráttum, eins og þær voru að lokinni heimsvaldastyrjöldinni. 1250 milljónir kúgaðra búa í nýlendunum - í löndum sem eru stykkjuð sundur lif-

## *Annar hluti*

andi, eins og Persíu, Tyrklandi og Kína; og löndum sem hafa verið sigruð og varpað niður á stig nýlendna (Hér á Lenín við lönd eins og Austurríki-Ungverjaland, Þýskaland og Búlgaríu, sem og Sovétríkin er stríðið hafði sömuleiðis hrakið aftur á bak "í aðstöðu sem jafna má við stig nýlendu" ritstj.) Innan við 250 milljónir búa í löndum sem haldið hafa fyrri afstöðu sinni, en orðin eru efnahagslega háð Ameríku. Og þessi lönd voru öll hernaðarlega háð henni, á meðan á styrjöldinni stóð, því styrjöldin hafði áhrif á gervallan heiminn og leyfði engu ríki að halda hlutleysi sínu. Og loks innan við 250 milljónir sem búa í löndum sem græddu á skiptingu heimsins, en skiljanlega var það aðeins efra lagið, aðeins kapitalistarnir sem græddu á henni. (Hér á Lenín við lönd eins og Bandaríkin, Japan og Bretland - ritstj.) ...Ég bið ykkur að minnast þessarar heimsmyndar, því allar grundvallarmóthverfur kapítalismans, heimsvaldastefnunnar, sem leiða munu til byltingar, allar grundvallar móthverfur innan verkalýðshreyfingarinnar, sem leitt hafa til ofsalegrar baráttu gegn II. Alþjóðasambandinu .. eru allar tengdar þessari skiptingu íbúanna í heiminum"

Hversu skýrt segir Lenín þetta ekki. Með tilliti til spurningarinnar um aðgreiningu pólitískra afla heimsins, hljómar þetta eins og hann hafi ráðandi baráttu nútímans í huga. Lenín veitti móthverfunni milli kúgaðra og kúgandi þjóða og móthverfunni milli heimsvaldaríkjanna mjög mikla athygli, og skipti löndum heimsbyggðarinnar upp í þrjá hópa og tengdi þessa skiptingu fast við allar grundvallarverkalýðshreyfingar. Þessi framsetning hans er algerlega andstæð tækifærisstefnu, eða "borgaralegum sósíalisma" 16 II. Alþjóðasambandsins sem ávallt leit niður á baráttu kúgaðra þjóða. Í skýrslu sinni skipti Lenín ekki löndum heimsins einfaldlega í tvo hópa, auðvaldsríki og sósíalísk ríki, heldur setti hann hin ýmsu lönd auðvaldsheimsins í þrjá hópa - kúgaðar nýlendur og hálf-nýlendur og sigruð lönd, lönd sem héldu fyrri afstöðu sinni og lönd sem unnið höfðu stríðið og grætt á skiptingu heimsins. Hann setti Sovét-Rússland í sama hóp og kúgaðar þjóðir og lönd. Lenín reiknaði fyllilega með því mikla hlutverki sem 1250 milljónir alþýðufólks gegndi í byltingarbaráttunni gegn heimsvaldastefnunni um víða veröld, þegar hann sagði:"1250 milljónum alþýðufólks er ómögulegt að lifa við þau þrældómskjör sem hinn "þróaði" og menntaði kapítalismi vill búa þeim: þegar allt kemur til alls, svarar þetta til 70 hundraðshluta af íbúum veraldarinnar."

Framhald greinarinnar birtist í næsta blaði.



*...í stuttu máli*

Þannig flytja hin heimsvaldasinnuðu fjölþjóðaauðfyrirtæki auðmagn sitt milli landa í gengdarlausri ásókn sinni eftir hámarksgróða. Eyðimörkin ein er skilin eftir handa atvinnuleysingjunum og "bisnessinn" færður þangað sem mest er hægt að maka krókinn.

## Námuverkamenn í verkfalli í Perú.

Verkfall fyrir hærra kaupi og fyrir endurráðningu verkamanna sem voru reknir, skall á í nær öllum námuiðnaði í Perú, föstudaginn 4. ágúst.

U.þ.b. 40.000 námamenn og verkamenn í slíkum iðnaði mættu ekki til vinnu vegna verkfallsins, sem boðað var af landsins stærsta námuverkamannafélaginu, National Federation of Miners and Metal Workers.

Námumannafélagið krefst endurráðningar á verkalýðsforingjum og öðrum starfsmönnum, sem reknir hafa verið vegna pólitískrar starfsemi á síðustu tveim árum. Félagið krefst þess einnig, að kaup umbjóðenda sinna hækki sem samsvarar 60% verðbólgu og það vill einnig að numin verði úr gildi lög frá 1976 sem skerða verkfalls rétt í þungaiðnaði.

Ríkisstjórnin krefst þess að námumenn hverfi aftur til vinnu og segir verkfallið varða við lög en hún segir það þó ekki vera "ólöglegt" sem hefði leitt til handtöku 9 verkalýðsforingja.

Til að berjast á móti verkföllum á síðustu tveim árum hefur ríkisstjórnin handtekið helstu foringja verkalýðsfélaganna og gert þá útlæga í sumum tilvikum.

2. sögur.
Framald af síðu 2.

það voru um 3-4 konur sem voru í félaginu og þær voru komnar í gallann og með klippurnar. Þær hjálpuðu okkur. Það þurfti að rífa klippurnar af sumum konunum. Þær þurftu á vinnunni að halda - Þetta voru krepputímar og þær þurftu að fá peninga fyrir vinnu sína. Við þurftum að rífa af þeim klippurnar og reka þær frá stömpunum og við stóðum þarna vörð fram í myrkur. Mér er þetta svo minnisstætt. Sumar voru farnar heim, bálreiðar, og sögðu: Þið eyðileggið fyrir okkur - Þið eyðileggið allt fyrir okkur. Aðrar stóðu þarna þegjandi rétt hjá húsinu og biðu eftir því hvað verða vildi. Nú svo kom Ástþór og hann skrifaði undir hjá okkur um kvöldið og ekkert meira með það. Þá fór allt í gang aftur, við fengum sama kaup og borgað var á Siglufirði. Hann gat ekki gert annað því að síldin lá undir skemmdum.

## LEIÐRÉTTING

Sú meinlega ambaga slæddist inní grein Dufþaks í síðasta tlb. að vinslit Kínverja og Albana hefðu orðið vegna pólitísks ágreinings. Vill Dufþakur leiðrétta þetta og vísar um leið á grein sem birtist í síðasta tlb. Stéttabaráttunnar þar sem hið rétta kemur í ljós.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
31. tlb. 7. árg. 22. 8. 1978

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




# Aðgerðir 21. ágúst



Frá fundi Samtaka herstöðvaandstæðinga fyrir framan sovéska sendiráðið í Garðastræti 33.

Þann 21. ágúst sl. voru 10. ar liðinn frá innrás Sovéskahersins og leppa þeirra inn í Tékkóslóvakíu. Þann dag voru víða í heiminum farið í mótmælagöngur og fundi til að mótmæla kúgun sovésku fasistanna á Tékkum og Slóvökum. Mikið var um fundarhöld í Reykjavík. Þau samtök sem stóðu fyrir aðgerðum þennan dag voru . Samtök herstöðvaandstæðinga (SHA) 21. ágúst hreyfingin og "Lýðræðissinnuð æska". Tilgangur þeirr þeirra siðastnefndu var greyni lega sá að sundra einingunni þennan dag. Þessi "Lýðræðissinnaða"æska getur ekki verið heil í stuðningi sínum við frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka. Hún styður heimsvaldastefnu Bandaríkjanna og leppa þeirra. Í málflutningi þeirra fjórmenninga sem héldu ræður á fundi þessum, var hvergi orði eitt á kúgun Bandaríkjanna á ríki Suður-Ameríku, hvergi talað um afskipti þeirra af innri málefnum Afríku. Hvergi minnst á fasistastjórnina í Chile og Brasilíu t. d. Ekkert talað um nauðsyn þess að herinn verði látinn fara héðan og Ísland segi sig úr NATO, til að við getum talist frjáls og fullvalda þjóð. Ekki minnast þessir NATO-sinnar á það atriði að til sé hervernc arsamningur milli ÍS arsamningur milli Íslands og Bandaríkjanna. Þar eru ákvæði þess efnis að íslenska ríkisstjórnin getur kvatt til bandarískt herlið til að bæla niður hverja þá hreyfingu sem er andstæð hagsmunum ríkisstjórnar Íslands og Bandaríkjanna. Gæti þetta ekki einmitt leitt til þess að "vorið á Íslandi fengi svipaðan endi og vorið í Prag.

Einmitt þessi atriði eru mælikvarði á að aðgerðir "Lýðræðsisinnaðrar"æsku eru einungis þjónkun við heimsvaldastefnu Bandaríkjanna.

Aðgerðir 21. ágúst hreyfingarinnar og SHA, voru aftur á móti stuðningur við frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka, því þau tóku upp nauðsynina á því að berjast gegn báðum rísaveldunum Bandaríkjunum og Sovétríkjunum.

Aðgerðir 21. ágúst hreyfingar innar byrjuðu með útifundi við Bernharðstorfuna kl. 4. 30. Voru þar haldin stutt ávörp og söngur. Síðan var haldið fylgtu liði, undir fánum og söng að fundi Samtaka herstöðvaandstæðinga fyrir utan sovéska sendiráðið í Garðastræti. Voru þar haldin stutt ávörp Hjördís Bergsdóttir söng 2 lög og Baldvin Halldórsson las tvö ljóð. Að lokum las Ásmundur Ásmundsson form. miðnefndar SHA bréf sem ætlunin var að afhenda fulltrúa sendíráðsins, en bréfið var til Bréfsneffs. En þegar til kom reyndist allt harðlæst og engin kom til dyra, jafnvel bréfalúgan var innsigluð. Var ætlunin að senda Brefsneff bréfið í ábyrgðarpósti.

Um kvöldið var síðan haldin innifundur 21. águst hreyfingar innar í Lindarbæ. Troðfylltist húsið á skömmum tíma. Var þar margt til skemmtunar og fróðleiks sem ekki er ástæða til að tíunda hér, en víst er að fundurinn var mikil lyftistöng fyrir alla baráttu and-heimsvaldasinna. Eitt mátti þó betur fara varðandi fundinn, en það var ræða varaformans 21. águs ágúst hreyfingarinnar Arnórs Sighvatssonar í lok fundarins. Gerði hann þar lítið annað en að ráðast á miðnefnd SHA og reyna að telja mönnum trú um að miðnefndin væri klofningsafl í aðgerðum þennan dag. Ástæðulaust var að tíunda deilur 21. ágúst hreyfingarinnar og SHA á fundi þessum.

# Skólinn í Kína

INNGANGUR:

Því miður hefur orðið dráttur á birtingu greinanna um skólann í Kína. Síðasta grein birtist í 25-26 tbl. í lók júní sl. Þar var rætt um áhrif fjórmenninganna á skólann. Í þessari grein sem jafnframt er sú síðasta um skólann í Kína , verður greint frá innra skipulagi skólans.

## Kennsluáætlanir og fl.

Kennarar hvers skóla, gjarnan í hverri námsgrein fyrir sig, gera eigin áætlanir um kennslu, námsefni og tilhögun kennslunnar. Áætlanir hópsins byggjast á áætlun sk. "Kennslumáladeild", sem hefur umsjón með mörgum skólum, sendir frá sér.

Kennarar fá þessa áætlun, rannsaka hana og prófa og ákvarða síðan tilhögunina út frá þeirri reynslu.

Versti óvinur kennarans er stöðnunin. Þegar kennarinn er farin að segja sömu setningarnar vetur eftir vetur eða jafnvel skrifa fáu brandarana sem hann kann innan á spássíu kennslubókarinnar til að geta sagt þá á " réttum tíma".

Í Kína er þessum vanda mætt meðal annars með því að kennar fá vikulega hálfan dag til rannsókna á námsefni og kennslutilhögun og til að bera saman bækur sínar. Markmið þessarar hópvinnu kennaranna er að skapa betri kennslu.

Auk þessa draga kennarar saman reynslu sína og meta árangur kennslunnar eftir hverja önn og eftir lokaprófin. Þetta gera þeir í sameiningu. Innifalið í þessu siðastnefnda bætist annað og meira. Nemendurnir draga einnig saman sína reynslu og gagnrýna kennsluna og stjórn skólans. Nemendur og kennarar skiptast þannig á skoðunum og miðla hverjir öðrum af reynslu sinni. Skrifleg skýrsla er síðan gefin út til áðurnefndrar "kennslumáladeildar" og flokksdeildarinnar á staðnum.

## Áhrif nemendanna.

Eitt meginatriði hvers skóla eru nemendur. Þeir hafa í hverjum bekk bekkjarformenn sem sjá úm ýmis málefni bekkjarins. Nefndir, eins og pólitísk fræðslunefnd og áróðursnefnd, starfa einnig í bekkjunum. Bekkjarnefnd heldur fundi með skólastjórn til að koma sínum málum á framfæri, gagnrýna o. s. frv. Þessir fundir eru reglulega einu sinni í mánuði a. m. k. Á þessum fundum eru einnig bornar undir nemendur kennsluáætlanir og hlustað á gagnrýni þeirra og óskir. Bekkjanefndin heldur síðan fund með bekkjarfélögum sínum á sama hátt og kennararnir.

Í efri bekkjum starfa einnig ungkommúnistadeildir, venjulega er ritari í hverjum bekk. Þeir starfa svipað og bekkjanefndirnar, koma t. d. á fundi með skólastjórn.

Auk þessa tilheyrir það félagslífi nemenda að stofnaðir eru hópar utan um ákveðið verkefni utan skólans. Það geta verið t. a. m. ferðalög.

Almennt séð virðist ríkja samstarfsandi milli nemenda og kennara og allt gert til að koma í veg fyrir tortryggni og sundrungu þar á milli. Það er gert með samvinnu milli þessara tveggja hópa og virðingu fyrir skoðunum og starfi hvers annars. Þeir starfa saman að sameiginlegu markmiði Betri kennslu, betra þjóðfélagi.



Þessi skóli var reistur eftir jarðskjálftana miklu í Kína þann 28. júlí 1976.

## Daglegur skólatími.

Daglegur skólatími er um 6 klukkustundir, þar af fjórar fyrir hádegi. Kennsla hefst klukkan 8. Hver kennslustund er 50. mínútur. Tíu mínútna hlé er gert eftir fyrsta tíma en eftir annan tíma er venjulega leikfímiæfing. Eftir þriðja tíma er gefinn tími til að nemendur geti stundað augnanudd. Það er sérstætt nudd kringum augun sem verndar sjónina.

Frá 12-2 er matarhlé en skóla síðan haldið áfram til 4. Eftir það fer fram ýmiskonar menningar og íþróttastarf. Þar æfa nemendur listir , íþróttir, eða stunda tæknistörf eftir vild og undir handleiðslu kennara.

Við kynntumst afrakstri þessa í heimsókninni. Í söngstofu skólans var efnt til hljómleika og nemendurnir spiluðu, sungu, léku og lásu upp okkur til óblandinnar ánægju. Þarna er reynt að uppgötva og þroska hæfileika nemendans.

Heimavinna er að sjálfsögðu fastur liður í námi þarna. Almennt er miðað við að hægt sé að ljúka því á 11/2-2 stundum. Einnig er til sk. sjálfskennslubekkir þar sem nemendur geta í siðasta tíma lokið hluta heimanámsins.

## Niðurlag.

Göngu okkar um skólann lauk um sama leyti og skólatíma lauk. Út úr einni kennslu stofunni heyrðum við ærslafengin læti , hróp og köll.

Við gátum vitanlega ekki stillt okkur um að fá að líta þar inn. Ærslin stöfuðu af því að nemendurnir voru að þrifa eftir sig stofuna og sópuðu af miklum ákafa.

Við kvöddum skólann reynslunni ríkari.

Eins og annarstaðar þar sem við komum í þessu ferðalagi var okkur sýnt með stolti allt það sem kínverjar hafa megnað á undanförnum árum í uppbyggingu sósíalismans. Með engu minni ákafa var okkur bent á það sem skammt var á veg komið.

--



Æskan í Kína unir sér vel við leiki og störf